# Sameiningin.

*Mánaðarrit til stuðnings kirkju og kristindómi Íslendinga. gefið út af hinu ev. lút. kirkjufélagi Ísl. í Vestrheimi.*

RITSTJÓRI *JÓN BJARNASON.*

16. árg. WINNIPEG, JÚLÍ 1901. Nr. 5.


## Sálmr

eftir séra VALDEMAR BRIEM, út af Jóh. 21, 4—12.

(Með sínu lagi.)

1. Sjóinn lífsins sœkjum vér,
sífellt afla leitum;
tíðum smár þó aflinn er,
orku þótt vér beitum.
Er þá hvergi hjálp að fá?
hvaðan myndi' hún sprottin?
Einn oss hjálpar; hver er sá?
hver þá nema drottinn?

2. Oft er dimm og döpr nótt,
drungalega syrtir.
Nóttin líðr furðu fljótt,
fagrlega birtir.
Sólin skín um land og lá,
ljómar, — hvaðan sprottin?
Sá, er geisla sendir þá,
sjálfr það er drottinn.

3. Dynr oft á hregg og hríð,
hret og stormar ganga.
Vorsól kemr vörm og blíð
vosbúð eftir stranga.
Aftr bœtist manni mörg
miskunn,—hvaðan sprottin?

Sá, er gefr brauð og björg,
blíðr það er drottinn.

4. Lítum upp að lífsins strönd,
lítum mann þar standa ;
sá oss réttir hjálparhönd,
hvern oss bœtir vanda.
það er vinr, — hver er hann?
hvaðan ást hans sprottin?
þekkirðu' ekki þennan mann?
það er sjálfr drottinn.

5. það er ekki langt til lands;
land er fyrir stafni.
þangað skal nú heim til hans
halda' í drottins nafni.
Leiði gott og lending er
líka þaðan sprottin.
Sá, sem gaf það allt, það er
enginn nema drottinn.

---

## Kirkjuþingið á Gimli.

það hefir tíðkazt að undanförnu að láta „Sameininguna" koma með gjörðabók kirkjuþinganna svo fljótt eftir að þau hafa haldin verið á ári hverju sem ástœður hafa leyft. Ýmist ágrip af gjörðabókinni, samið af ritstjóra blaðs þessa, svo nákvæmt í meginatriðum sem hann hefir haft vit á, eða gjörðabókina orðrétta eins og hún hefir rituð verið af skrifara kirkjufélagsins og staðfest af þingmönnum fund eftir fund á því og því ársþingi. Að eins í eitt skifti síðan kirkjafélag vort var stofnað hefir öðruvísi verið farið að. það var árið 1886. Annað ársþing kirkjufélagsins var þá haldið að Garðar í N.-Dak. þess kirkjuþings var að eins getið með ofr lítilli smágrein í Júlí-blaði „Sam." það ár, en ágrip af gjörðabók þess gefið út í sérstökum ritlingi á kostnað kirkjufélagsins og selt fyrir 10 cts. Á kirkjuþingi því, er nú var síðast haldið af félagi voru, á Gimli í Nýja Íslandi í Manitoba, varð það að ráði, að fara líkt að. Gjörðabók þessa kirkjuþings, sem er langtum

stœrri, skyldi ekki í heild sinni prentuð í ,,Sam.", heldr komi í sérstökum ritlingi, sem stjórn kirkjufélagsins láti prenta hið fyrsta á félags kostnað og selja fyrir afar lágt verð.

það, sem hér fer á eftir, er því ekki nein regluleg gjörðabók kirkjuþings þessa, heldr að eins hugleiðingar ritstjóra ,,Sam." út af því þingi og helztu málunum, er þar voru uppi.

þetta var seytjánda ársþing kirkjufélagsins, og stóð það yfir frá því um nón þriðjudag 25. Júní þangað til um miðnætti milli síðasta dags þess mán. og fyrsta dags í Júlí. Að eins einu sinni áðr hefir kirkjufélag vort haldið ársþing sitt í Nýja Íslandi,—við Íslendingafljót árið 1890. Margt hefir hjá oss breytzt á þeim ellefu árum, sem síðan eru liðin. Framtíðarhorfurnar voru þá miklu skuggalegri en nú. Mótspyrnan gegn kirkjufélaginu utan að var þá óðum að magnast; vantrúin og kristindóms-afneitanin hafði opinberlega brotizt út, og það var komið fast að því, að einn af prestum kirkjufélagsins, sá einmitt, sem þjónaði Nýja Íslands söfnuðunum, félli frá og hyrfi undan merki kirkju vorrar inn í lið andstœðinganna. Afleiðingin af fráhvarfi þess manns myndi eðlilega verða kirkjuleg sundrung og trúarleg ringulreið meðal almennings í því byggðarlagi víðsvegar. það gátu allir vitað fyrir fram. Og var því eðlilega kvíði í hjörtum manna, er þeir sóttu það kirkjuþing. En er menn nú söfnuðust til kirkjuþingsins á Gimli, voru gagnstœðar tilfinningar ráðandi. Allir sér þess meðvitandi, að málefni kristindómsins er að vinna sigr í þjóðlífi Vestr-Íslendinga yfir höfuð, og þess sérstaklega, að menn voru nú á ferðinni inn í það byggðarlag fólks vors, sem á þessum tíma er óðum að ná sér aftr í kirkjulegu tilliti, óðum að rísa upp að nýju í andlegum skilningi. Nálega allir kirkjuþingsmenn utan Nýja Íslands komu í einum hópi að Gimli degi áðr en þingið var sett, með gufubátnum ,,Premier" frá Selkirk, og höfðu mjög góða og skemmtilega ferð. Bryggjan nýja, sem stjórnin lét byggja á Gimli í fyrra, var brotin. það vissu komumenn áðr en þeir lögðu á stað í ferð þessa. Gátu því líka búizt við, að ervitt eða jafnvel ómögulegt yrði að lenda þar við ströndina, ef stormr blési á land upp. En engin slík hindran kom fyrir í veðrblíðunni, sem var á Winni-

þeg-vatni þann dag. Við annarri hindran, sem þinginu var fyrir búin, bjuggust komumenn þar á móti ekki. Kirkjunni á Gimli, þar sem þingið skyldi haldið, hafði verið læst af andstœðingum safnaðarins lúterska þar á staðnum, sem boðið hafði þinginu til sín. Söfnuðinum úr þeirri átt harðlega bannað að nota það samkomuhús. Það borið fyrir, að ágreiningr væri um það, hver væri löglegr eigandi kirkjunnar, hinn núverandi lúterski söfnuðr á Gimli, eða leifarnar af gamla söfnuðinum, sem fyrir mörgum árum kom húsi þessu upp, en breytti síðan trúarjátning sinni og gekk úr lögum með oss. Meðan sá ágreiningr væri óútkljáðr skyldi hvorugr málsaðili hafa not af kirkjunni. Og svo var lás settr fyrir kirkjudyrnar, og lögregluþjónn honum til gæzlu á verði við kirkjuna, skipaðr af valdsmanni einum, sem Manitoba-fylkisstjórn hefir þar á Gimli. Tiltœki þetta kom skiljanlega flatt upp á alla komumenn, og þótti þá sýnt, að enn lifði í kolum vantrúarófriðarins í því byggðarlagi, er með þessu móti var reynt til að hindra þinghald vort.

Vanhugsað var þó ráð þetta vissulega. Því telja mátti víst, að það myndi mælast fremr illa fyrir, eigi að eins innan kirkjufélagsins lúterska og vina þess, heldr líka hjá öllum þorra annarra Íslendinga, enda mátti brátt heyra á sumum, sem algjörlega eru lúterska söfnuðinum á Gimli óháðir, að þeir voru sárir út af ofríkis-fyrirtœki þessu og töldu það mannfélaginu þar á staðnum til óvirðingar. Eru því líkindi til, að forgöngumenn fyrirtœkisins hafi með því fremr veikt málstað flokks síns en styrkt hann jafnvel hjá sumum sinna eigin manna. Og í annan stað var allsendis ólíklegt, að ekkert myndi verða af hinu fyrirfram ákveðna kirkjuþingi á Gimli, að þingmenn myndi flýja þaðan burt ráðalausir og án þess að reka erindi sitt, þótt það hús, sem þar er hentugast til slíkra fundahalda, væri þeim bannað. Þar eru líka önnur hús, sem vér gátum fengið aðgang að og vel má nota í viðlögum. Og þótt ekkert slíkt hús hefði til verið, myndi kirkjuþingið eins fyrir því hafa háð verið á Gimli,—undir berum himni. Því eins og stendr í sálminum:

,,Guðs musteri er öll veröld víð" o. s. frv.

Og þó að andstœðingum vorum með hjálp hins veraldlega stjórnarvalds tœkist að setja lás og járnslá fyrir allar kirkjur, sem með manna höndum eru gjörðar, þá er þó þar það hús, sem jafnvel hinum svo nefnda höfðingja þessa heims aldrei tekst að loka fyrir lærisveinum Jesú Krists.

Tilætlanin var nú að líkindum sú, að kirkjuþingsmenn eða söfnuðrinn, sem boðið hafði kirkjuþinginu til sín, léti ofbeldi koma á móti ofbeldi og brytist inn í kirkjuna á Gimli þrátt fyrir bannið, löggæzluna og lásinn. Til þess gat líka óneitanlega verið talsverð freisting. En til allrar hamingju varð sú freisting hœglega yfirstigin. Og svo varð enginn ófriðr. Viðsjár nokkrar með hinum andstœðu flokkum þar á staðnum, en engar verulegar œsingar. Þingmennirnir aðkomnu biðu rólegir vatnsins hrœringar, áhyggjulausir og í góðu skapi, nóttina til þriðjudags og allan fyrra hluta þess dags, hjá hinu góðsama og gestrisna fólki, er innhýsti þá og tekið hafði við þeim með opnum örmum. Rétt eftir hádegi þann dag skyldi þingið sett. En þingsetningin dróst nokkuð fram yfir þann tíma, því snemma um daginn hófust sáttaumleitanir milli málsaðila, safnaðarins lúterska á Gimli og andstœðinga hans, sem kirkjunni höfðu lokað, og þótti líklegt, að þær samningatilraunir myndi vel út leiðast, eins og líka varð. Niðrstaðan var sú, að lúterski söfnuðrinn skyldi hafa fullkomið eignarhald á kirkjunni framvegis gegn því að skuldbinda sig til innan ákveðins tíma að greiða hinum mönnunum eitt hundrað dollara. Upp á það sættust málspartar. Og síðan var kirkjan opnuð og þingið hóf starf sitt. Ágreiningrinn leiðinlegi um eignarréttinn til kirkjunnar á Gimli er nú á enda, því á því er enginn vafi, að söfnuðrinn borgar þessa fjárupphæð refjalaust á sínum tíma. Og þótt sumum ef til vill finnist söfnuðrinn hafi sætt þar ókjörum, þar sem eignarréttr hans til hússins hafi áðr skýlaus verið, þá er þó fyrir þá að muna eftir því, að í svona löguðum málum á sá að vægja, sem vitið hefir meira. Og svo má telja víst, að það margborgar sig fyrir söfnuðinn að losna með þessum útlátum við það málastapp og þras, sem haldið hefði áfram út af kirkjueign þessari, hver veit hvað lengi, ef þetta samkomulag ekki hefði tekizt.

Séra Björn B. Jónsson prédikaði eins og til stóð í guðsþjónustunni á undan kirkjuþingssetningunni og lagði ágætlega út af sögunni í Jóhannesar guðspjalli, 13. kap., um fótaþvottinn, talaði um hógværðina og þjónsskyldu kristinna manna, þeirra sérstaklega, sem til þess eru af drottni kvaddir, að standa fyrir kirkjumálunum. Altarisganga fyrir kirkjuþingsmenn og alla aðra, sem vildu, var eitt atriði í þessari þingsetningar-guðsþjónustu. það hefir ekki hjá oss tíðkazt áðr, en í þess stað altarisganga við sunnudagsguðsþjónustu seinna á kirkjuþingi. Framvegis verðr væntanlega altarisgangan höfð í þingbyrjan eins og nú. það er þinginu áreiðanlega til mikillar blessunar. Aldrei þurfa menn meir að halda á því guðlega sameiningarafli, þeirri trúarstyrking og þeirri upplyfting andans, sem kvöldmáltíðarsakrament drottins Jesú hefir í sér geymt, en þegar á slíka kirkjulega ráðstefnu er komið. Óhætt má líka segja, að aldrei hafi fundarstörf vor gengið betr, aldrei betr verið unnið, aldrei meiri eindrægni og bróðurhugr birzt í orði og verki á kirkjuþingum vorum en á þessu síðasta, sem haldið var á Gimli. þingsetningar-guðsþjónustan endaði með því, að lesinn var hinn mikli sálmr kirkjuföður vors Lúters allr: ,,Vor guð er borg á bjargi traust,''—og síðan sungin tvö vers af þeim sálmi, hið 1. og 3. Og aldrei hefir oss áðr fundizt þau vers sungin með sterkari rödd en einmitt í þetta skifti. Samkoman lyftist heyranlega upp, þegar hún syngjandi bar fram þessi trúarsterku, sigrihrósandi orð: ,,þótt mannkynsmorðinginn nú magni fjandskap sinn, hann engu orka kann.''

Alls sátu á kirkjuþinginu sjö prestar, 33 safnaða-erindsrekar, og einn embættismaðr kirkjufélagsins, sem ekki er prestr (varaféhirðir, í stað féh., sem var forfallaðr); enn fremr einn guðfrœðingr óvígðr, sem ráðinn er til missíónarstarfs hjá oss um þrjá mánuði á þessu sumri (Gunnlaugr Jónsson, frá prestaskólanum lúterska í Philadelphia). Alls 41. En auk þess var erindsrekum þeim öllum, sem sérstaklega voru komnir til funda þeirra, er haldnir voru í sambandi við kirkjuþing þetta út af málum bandalaganna sameinuðu og sunnudagsskólanna í félagi voru, veitt málfrelsi á þinginu. Einn af prestunum

(séra Oddr V. Gíslason) gat ekki komið á þing fyrr en á fjórða degi.

Helztu málin, sem kirkjuþing þetta hafði meðferðis, voru þessi, og var á öll þeirra nema hin þrjú síðast nefndu bent í ársskýrslu forseta: 1. prestsþjónustumál, 2. missíónarmál, 3, skólamálið, 4. málið um það, hvort vér framvegis eigum að halda bandalagsþing og snnudagsskólaþing í sambandi við kirkjuþingin, 5. þingsályktan út af árásum á kirkjufélagið, 6. hin kirkjulegu tímarit vor, 7. prestaskólinn í Chicago, 8. bindindismál, 9. eftirlaun presta. Út af öllum þessum málum voru nefndir settar á þinginu. Sá vandi hvílir á forseta kirkjufélagsins, samkvæmt grundvallarlögum þess og því er tíðkast á öllum slíkum samkomum hér í landi, að kveðja menn í slíkar þingnefndir. Tekr það minni tíma en til þyrfti, ef í þær skyldi kosið. En með þessu fyrirkomulagi lendir sök á forseta, ef útnefningin verðr ekki að allra óskum. Stundum hefir og þótt kenna hlutdrœgni af hálfu forseta í þessari grein, þótt ekki viti hann sig þar sekan. Líklega sleppr hann í þetta skifti við allan grun í þá átt, því hann tók nógu snemma á þessu þingi það ráð, að setja alla þingmenn í netndir, að séra Oddi V. Gíslasyni einum undanteknum, sem ekki kom á þing fyrr en öllum nefnda-kvaðningum var lokið. Flestir þingmenn voru að eins í einni nefnd, og engir í fleiri nefndum en tveimr. Ekki að eins til þess að firra forseta vítum teljum vér hyggilegt að fylgja þessari reglu framvegis, heldr einnig til þess að enginn þingmaðr freistist til þess að lenda eins og utan við verk það, sem verið er að vinna á kirkjuþinginu, freistist til að ímynda sér, að hann sé af öðrum talinn einskonar hornreka eða utanveltu-maðr. Oft hafa menn áðr viljað fara burt af þingi löngu fyrr en því var slitið, svo sterklega, að enginn kraftr hefir getað haldið þeim kyrrum, sennilega þeir helzt, er engum nefndarstörfum voru bundnir. En nú kom ekkert slíkt fyrir. Allir sátu rólegir til þingloka, enda var gestrisni sú, er menn nutu hjá Gimli-búum, svo mikil, að aldrei hefir betr verið á neinum þingstað.

Prestsþjónustumálið og missíónarmálið eru náskyld, nærri því sama mál. Hér var að einu leyti um það að rœða, hvern-

ig þeir söfnuðir félags vors eigi í bráðina að geta bjargazt, sem að undanförnu hafa notið stöðugrar og reglubundinnar prestsþjónustu, en nú hafa misst eða eru að missa frá sér presta sína (prestakall séra Jónasar A. Sigurðssonar og séra Jóns J. Clemens, og ef til vill séra Friðriks J. Bergmanns). En hins vegar kom það til greina, að hve miklu eða litlu leyti kirkjufélagið getr á þessu ári haldið áfram missíónarverki sínu meðal safnaða þeirra í ýmsum áttum, er enga fasta prestsþjónustu hafa haft hingað til, svo og í öðrum Íslendingabyggðum, þar sem engin safnaðamyndan hefir enn komizt á. Mjög ófullkomlega varð á þinginu ráðið fram úr þessu tvöfalda nauðsynjamáli. Við engu meira en gjört var gátu menn búizt. Á missíónera þann, er ráðinn er í þjónustu kirkjufélagsins í sumar, er áðr minnzt. Nokkur von er og um það, að séra Jón J. Clemens, sem ákveðinn er í því, að hverfa burt frá Argylesöfnuðunum í haust, láti góðfúslega til leiðast að gjörast missíónarprestr kirkjufélagsins nokkra mánuði eftir það, helzt á næsta vori. Og stórvægilega bœtir það úr núveranda prestaskorti vorum, ef af því verðr, að vinr vor og fyrrverandi starfsbróðir séra Hans B. Thorgrímsen, er þjónað hefir norskum söfnuði í Milwaukee, Wis., tekr köllun frá þrem þeirra safnaða, sem séra Jónas A. Sigurðsson hefir þjónað, og kemr til vor í haust, eins og vér höfum frétt eftir að vér komum heim af kirkjuþingi.

Lengst af heyrist á því klifað af óvinum kirkjunnar meðal vor Íslendinga, að klerkarnir eigi við svo mikil sældarkjör að búa, að því er snertir jarðneska afkomu. Þeir sé svo hátt launaðir og aðallega embættis-launanna vegna hafi þeir gjörzt prestar. Þetta er heimska, blandin öfund og illgirni. Eins og forseti tók fram í ársskýrslu sinni á þessu síðasta kirkjuþingi er almenn umkvörtun um það í hinum stóru kirkjufélögum hér í álfu, að langt um færri námsmenn fáist til þess að ganga í guðfræðisskóla og undirbúa sig til prestskapar en félögin þurfi á að halda til þess að halda hinu kirkjulega verki áfram og fœra verksvið sitt út. Og aðal-orsök þeirrar fæðar er með rökum sýnd vera sú, að hinir ungu menn vilja heldr búa sig undir nálega hverja aðra lífsstöðu, sem hærri menntan

útheimtist til, fyrir þá sök, að þar geta þeir búizt við hærrri launum. Reynslan er líka farin að sýna, að allr þorri hinna íslenzku námsmanna bæði í Canada og Bandaríkjunum lítr eins á það mál, því flestir vilja þeir annað nám fyrir sig leggja en hið guðfrœðislega. Rétt var það því vissulega ráðið af þessu kirkjuþingi, í núverandi prestaskorti vorum að reyna til að búa í hag kirkjufélagsins framvegis með því að gefa forseta vald til að verja nú þegar á þessu ári allt að 300 dollurum til að styrkja eina tvo eða þrjá efnilega unga námsmenn til skólagöngu upp á það, að þeir byggi sig undir kennimannsstarf í félagi voru. En jafnframt þarf auðvitað áhuginn á málefni kristindómsins að glœðast hjá hinum uppvaxanda lýð safnaðanna, svo að allt af verði þar einhverjir til að gjörast boðberar guðs orðs meðal síns eigin þjóðflokks, þó að flest annað lífsstarf borgi sig í jarðnesku tilliti miklu betr.

Skólamálsnefndin, sem sett var í fyrra, kom með tvískift álit inn á þetta kirkjuþing. Samningar við Gustavus Adolphus College í St. Peter, Minn., um það, að félag vort kœmi þar að íslenzkum kennara, höfðu ekki tekizt. Forráðamenn þess skóla í Ágústana-sýnódunni sœnsku stóðu ekki, þegar til kom, við tilboð það, er þaðan var til vor komið. En nú hafði skólamálsnefndin aflað sér upplýsinga um það, að komast myndi mega að vel viðunandi samningum í sömu átt við einn af hinum hærri skólum í Winnipeg, Wesley College, sem kirkjudeild Meþodista heldr uppi. Í annan stað hafði komið til máls í nefndinni, hvort ekki væri tiltœkilegt, að kirkjufélagið byrjaði kennslu upp á eigin býti nú þegar í haust. En sökum hins væntanlega miklu meira kostnaðar, sem til þess myndi útheimtast, virtist það síðr tiltœkilegt en hitt, að setja sig í samband við Wesley College. Meiri hluti nefndarinnar frá í fyrra réð nú til þess, að kirkjuþing gæfi þessa árs skólanefnd, sem er skipuð tveim fleiri mönnum en áðr, vald til að ráða sér kennara (á líkan hátt og í fyrra var til ætlazt, ef samningar tœkist við skólann í St. Peter) og byrja kennsluna á þessu ári annaðhvort í sambandi við Wesley College eða á hvern annan hátt, sem nefndin teldi sér fœrt. Minni hluti nefndarinnar (séra Björn B. Jónsson) kom með sitt ágrein-

ingsatkvæði, þorði ekki að ráða til þessa, áleit kirkjufélagið íslenzka eiga of mikið á hættu, ef af því yrði, að það í kennslumálum sínum bindist félagsbandi við ólúterska kirkjudeild. Sami skoðanamunr kom fram í þinginu. Tillaga meira hluta nefndarinnar gömlu náði þó fram að ganga með réttum fjórða hluta atkvæða á móti. Naumast er þó nein hætta fyrir því, að skoðanamunr þessi verði framkvæmdum í skólamálinu til fyrirstöðu. Menn minna hlutans eru víst allir svo góðir félagsmenn, að þeim dettr ekki í hug að hefta framgang málsins, þó að hin núverandi skólamálsnefnd kunni fjárskorts vegna í kirkjufélaginu að velja hina auðveldari leið, láta kennsluna byrja í sambandi við hinn áminnzta Winnipegskóla, ef hún kemst að eins góðum samningum og við er búizt. Allir kirkjuþingsmenn vissu áðr en kosið var í skólamálsnefndina nýju, að séra Friðrik J. Bergmann er maðrinn, sem fyrirhugaðr hefir verið til kennaraembættis þessa, nú alveg eins og í fyrra, þá er um Gustavus Adolphus skólann var að rœða. Og svo var hann þá líka nú mjög eðlilega einn þeirra sjö manna, sem kosnir voru í skólamálsnefndina. Hinir nefndarmennirnir eru: Friðjón Friðriksson, Sigtryggr Jónasson, Magnús Paulson (þeir þrír áðr í nefndinni), dr. Brandr J. Brandson, Tómas H. Johnson og séra N. Steingrímr Þorláksson.

Væntanlega bíða menn nú ekki aðgjörðalaust í þessu mikla nauðsynjamáli þjóðflokks vors hér fram að næsta kirkjuþingi. Sérhver byrjunartilraun í verkinu mun mælast vel fyrir bæði utan og innan kirkjufélagsins.

Það varð að ráði á þinginu að halda fundina út af bandalagsmálum og sunnudagsskólamálum framvegis í sambandi við kirkjuþingin, en þó ekki alveg eins og að undanförnu, heldr eftir þinglok.

Á málið um árásir á kirkjufélagið þarf hér ekki að minnast, því þingsályktanin um það mál hefir þegar í heild sinni birzt í „Lögbergi".

Samkvæmt bending í ársskýrslu forseta réð þingið til þess, að reynt yrði að sameina „Sameininguna", „Aldamót" og „Kennarann" í eitt tímarit. En svo œskilegt sem það

væri, eru þó á því ýmsir örðugleikar, sem ef til vill reynast enn óyfirstíganlegir. Útbreiðsla allra þriggja rita þessara er langtum minni en viðunanda sé. „Sameiningin“ er hið eina af tímaritum þessum, sem beinlínis er gefið út af kirkjufélaginu. En eigi það blað að halda áfram eins og að undanförnu, þá verða áskrifendr þess að gjöra miklu betri fjárskil en verið hefir á næstliðnu ári.

Með tilliti til þess, hvílíkra velgjörða kirkjufélag vort hefir orðið aðnjótanda frá hinum lúterska prestaskóla í Chicago, réð kirkjuþingið til þess, að leitað væri í söfnuðum vorum einhvern tíma á ári þessu frjálsra samskota þeirri menntastofnan til handa. Ætlazt er auðvitað til, að prestarnir beri það mál upp og skýri það fyrir söfnuðum sínum. Sá skóli er í engri fjárþröng. Hér er að eins um það að ræða, að vér sýnum skóla þessum og hinum ágæta forstöðumanni hans dr. Weidner á þennan hátt ofr lítinn þakklætisvott í verkinu. Dr. Weidner kom til Minneota, Garðar og Winnipeg rétt á undan kirkjuþingi, prédikaði í Fyrstu lútersku kirkju í W.peg sunnudaginn 23. Júní, fór svo með oss næsta dag til Selkirk og þaðan samdægrs með gufubátnum alla leið að Gimli, og var sú samfylgd og viðkynning hans oss öllum hið mesta fagnaðarefni. Hann sté þó ekki í land á Gimli, sneri aftr með bátnum áðr en tíðindin komu til vor um það, að búið væri að loka fyrir oss kirkjunni. Þótti mörgum betr, að þau tíðindi bárust honum ekki áðr en hann kvaddi oss.

Kirkjuþingið studdi það, að hlynnt væri að bindindismálinu, og var þá auðvitað til þess ætlazt, að prestar og söfnuðir kirkjufélagsins legði kapp á að útbreiða heilbrigðar og guðs orði samhljóða bindindisskoðanir.

Málið um eftirlaun presta hafði eiginlega ekki annan árangr en þann, að einum prestinum, séra Jóni J. Clemens, sem upphaflega hreyfði því, var falið á hendr að vera sér úti um upplýsingar um það, hver aðferð væri höfð í öðrum kirkjufélögum, þeim er helzt myndi verða oss til fyrirmyndar, til þess að sjá borgið prestum þeim, er sakir elli eða heilsubrests ekki lengr geta unnið og í efnalegu tilliti eru ósjálfbjarga. Og

skyldi hann láta félagi voru þær upplýsingar í té á næsta kirkjuþingi.

Á fundina, er haldnir voru á kirkjuþinginu út af málum bandalaganna og sunnudagsskólanna verðr sérstaklega minnzt í „Sam.“ Þeir heppnuðust ágætlega.

Tveir fyrirlestrar voru fluttir á þinginu, annar af ritstjóra þessa blaðs, að kvöldi annars dags, með fyrirsögninni *Þrándr í Götu*, hinn að kvöldi fimmta dags, *um bókstafinn og andann*, af séra Friðrik J. Bergmann. — Við guðsþjónustuna á sunnudag prédikaði séra Jón J. Clemens. — Að kvöldi þess dags rétt undir þinglok fóru fram trúmálsumrœður um *syndina*. Inngangsrœða séra Rúnólfs Marteinssonar var ágæt, en annars heppnuðust þær umrœður ekki sem bezt, að sumu leyti líklega af því, að þingmenn voru orðnir þreyttir, en að sumu leyti vissulega fyrir þá sök, að þær snerust of mikið um athugasemdir utankirkjumanna á annarlegum trúargrundvelli, sem gefið var orðið á fundinum. Vafalaust verðr heppilegra framvegis að hafa trúmálsumrœðurnar fastákveðnu snemma, en ekki seint, á kirkjuþingi.

1. Júlí kom hópr kirkjuþingsmanna, þeirra allra, er ekki eiga heima í Nýja Íslandi, frá Gimli með gufubátnum „Premier“ aftr til Selkirk, og datt þar ofan í veizlu, sem kvenfélag safnaðar vors þar hafði þeim búna. Svo tók við andleg veizla í kirkju þess safnaðar, söngr og rœðuhöld, og varð ekki heyrt á rœðumönnunum, sem allir höfðu á kirkjuþinginu setið, að þeir væri áðr orðnir þreyttir á að tala.

---

## Ein af nútíðar-kreddunum kirkjulegu.

Smábrot af fyrirlestrinum „Þrándr í Götu“.

---

Fyrst*) skal nefnd hin hærri „kritík“, sem svo er kölluð, nýmælin um tilorðning margra ritanna í biblíunni, sem séra

*) Upphafsorð þessa þáttar bendir til þess, að síðar í fyrirlestrinum var talað um ýmsar fleiri kreddur, sem nú eru að beiðast hjá oss landsvistar. Af því séra Jón Helgason vill víst sem fyrst vita, hvað vér höfum sagt um þetta sérmál hans núna á kirkjuþinginu, réðum vér af að birta það í þessu „Sam.“-blaði, því þess verðr ef til vill talsvert langt að bíða, að fyrirlestrinn komi út í heild sinni.—Ritst. „Sam.“

Jón Helgason hefir verið að halda fram, en séra Björn B. Jónsson að rita á móti og hrekja. Og í sambandi við þau nýmæli og af þeim leiðandi sú kenning, er neitar því, að ritningin í heild sinni sé innblásin af heilögum anda eða að hún sé guðs orð. Séra Jón Helgason hefir í blaði sínu „Verði ljós!" borið sig upp út af því, sem eg í mesta bróðerni og í sem fæstum orðum hreyfði við sérmáli hans í fyrirlestri þeim um „mótsagnir," er eg flutti á kirkjuþingi í fyrra. Rétt er þó sú tilgáta hans þar, að eg muni ekki ætlazt til, að hann—eða neinn annar—fylgi mér „í gegn um þykkt og þunnt". Eg hefi ekkert út á það að setja, að skoðanir manna innan sömu kirkjudeildar sé talsvert skiftar um ýmislegt hinni sameiginlegu trú og kirkju viðkomanda. Svo lengi sem þar er að eins um auka-atriði að rœða, eða svo lengi sem auka-atriðin ekki eru gjörð að aðal-atriðum, getr allt vel farið, og skoðanamunrinn meira að segja orðið kristindómslífinu til eflingar. En þegar sérmálin kirkjulegu eru lamin fram með öðrum eins ákafa og úr þeim gjört eins stórt númer og reynd hefir á orðið um biblíu-kritíkina og hennar fylgifiska í ritgjörðum þessa mikilsvirta vinar vors og bróður, þá fer mér að minnsta kosti ekki að lítast á. Hann getr þess, að eg hafi líka verið að berjast fyrir ýmsum sérmálum, þótt ekki nefni hann þau. Eg býst við, að þar sé helzt átt við það, sem eg hefi á ýmsum tímum sagt um skaðvæni Kaupmannahafnar-menntunarinnar fyrir þjóð vora og Ísland, og þá sannfœring, sem oft hefir komið fram hjá mér, að kristin kirkja sé miklu betr sett þar sem hún er frjáls og sjálfstjórnandi en þar sem hún er bundin á klafa hins veraldlega valds. Það má fyrir mér kalla þetta kreddur. Það má, ef menn endilega vilja, benda á þetta sem sönnun fyrir því, að eg eins og aðrir hafi mínar kreddur fyrir mig. En að jafna því í trúarlegu, kristilegu tilliti við kredduna um biblíu-kritíkina, er séra Jón Helgason hefir tileinkað sér og leggr svo mikið kapp á að útbreiða, það nær engri átt. Það getr ekki sært hina kristilegu trúartilfinning hjá neinum, þótt því sé haldið fram, sem eg hefi gjört, að Íslendingar hafi beðið stórtjón af lífsstraumi þeim, er til þeirra hefir mannsaldr eftir mannsaldr og öld eftir öld komið úr höfuðstað Danmerkr,

—ekki nema því að eins, að Kaupmannahöfn og háskólinn þar sé einn þáttr í kristnu trúnni, sem eg kannast ekki við. Og það getr ekki heldr, að því er trúna snertir, hneykslað neinn, þótt því sé haldið fram, eins og eg líka hefi gjört, að málefni kristindómsins sé betr borgið í frjálsri og sjálfstjórnandi kirkju en í ófrjálsri ríkiskirkju,—ekki nema því að eins, að menn hafi það fyrir satt, að ríkiskirkju-fyrirkomulagið eigi rót sína í einhverjum guðlegum ákvæðum í nýja testamentinu. En sú skoðan er mér vitanlega ekki til meðal Íslendinga í nútíðinni, þó að eg hafi rekið mig á hana hjá einstaka guðfræðingi annarra þjóða. Þegar um biblíu-kritíkina áminnztu er að rœða, þá er þar allt öðru máli að gegna. Þar er sú kredda, sem vita mátti um fyrirfram, að særa myndi trúartilfinning margra vel kristinna manna eigi síðr hjá vorri þjóð en hverri annarri. Enda er enginn vafi á því, að það, sem í liðinni tíð hefir sagt verið opinberlega á íslenzku í þá átt, hefir þegar hneykslað ekki svo fáa trúaða Íslendinga. Og það mjög eðlilega, fyrir þá sök, að sérkenning þessi eða kredda gengr meginmáli kristindómsopinberunarinnar, miðpunkti trúarinnar á Jesúm Krist, svo háskalega nærri, eða sýnist að minnsta kosti gjöra það.

Setjum svo, að allt það reynist satt, sem biblíu-kritík sú fer fram á, er séra Jón Helgason hefir tekið að sér. Það eru nú ekki miklar líkur til þess, að sú verði reyndin. En hugsum oss, að þar sé að eins um sannleik að rœða. Það getr eins fyrir því verið varúðarvert og beinlínis rangt í kristilegu tilliti að fara með það mál — þessa svo kölluðu ,,niðrstöðu hinna vísindalegu rannsókna''—eins og gjört hefir verið. Séra Jón Helgason ráðleggr andmælanda sínum séra Birni B. Jónssyni að lesa biblíuna betr, og muni hann þá geta séð, að andmæli hans gegn biblíu-kritíkinni hafi þar engan stuðning. Eg vildi eigi síðr bróðurlegast ráðleggja nafna mínum að kynna sér biblíuna betr en hann enn virðist hafa gjört, þótt ekki væri nema 14. kapítulinn í Rómverjabréfinu. Þar er minnzt á tvo flokka kristinna manna í kirkju þeirrar tíðar: veiktrúaða menn og sterktrúaða. Veiktrúuðu mennirnir voru háðir ýmsum ófullkomleikum með tilliti til þekkingarinnar. Meðal

annars ímynduðu þeir sér, að kjöt af dýrum, sem heiðingjar höfðu slátrað til fórna, mætti ekki nota til fœðu af kristnum mönnum. Slík nautn yrði þeim að synd. Og með því að aldrei varð fengin full vissa um það, hvernig stœði á kjöti því, er selt var á mörkuðum borganna víðsvegar um lönd á þeirri öld, þá varð það ráð þeirra manna að forðast alla kjötnautn og lifa að eins af jarðarávöxtum. Annar veikleiki manna þessara kom fram í því, að þeir gjörðu sér daga mun, tóku suma daga í trúarlegu tilliti fram yfir aðra. Þetta eru þá augsýnilega menn, sem lifa í mjög þröngum bindindisskoðunum. En aðrir vissu betr, voru lausir við allt slíkt trúarlegt þröngsýni, andlega víðsýnir, sterktrúaðir menn. Og í því tilliti heyrði Páll postuli algjörlega til hópi þessara síðar nefndu kristnu manna. En hvernig kemr hann nú fram í ágreiningsmáli flokka þessara? Hann segir: ,,Sérhver haldi sannfœring í huga sínum.'' Hver fari fyrir sjálfan sig eftir sinni sannfœring, en varizt að dœma hina, sem eru annarrar sannfœringar, láti algjörlega vera að troða sinni sannfœring upp á aðra. ,,Sá, sem alls neytir, fyrirlíti ekki hinn, sem ekki neytir alls; og sá, sem ekki neytir alls, dœmi ekki þann, sem alls neytir.'' ,,Sá, sem af deginum heldr, heldr af honum vegna drottins; og sá, sem ekki gjörir sér daga mun, gjörir hann ekki vegna drottins.'' Látum þá, sem eru hræddir við hina umrœddu biblíu-kritík, vera í samanburði við hina mennina þröngsýna, veiktrúaða. Sé sannfœring þeirra hreinskilin, þá verða hinir samvizkusamlega að taka tillit til hennar. Það er heilög skylda þeirra. Eg veit, að það er sagt, að sú skoðan á biblíunni, sem að undanförnu hefir verið ráðandi í kristninni, fæli margan mann frá því að gjörast maðr kirkjunnar. Og víst má svo með þá skoðan fara, að hún hafi þessa illu afleiðing. Henni hefir vitanlega marg-oft verið misbeitt í kirkjunni. En af tvennu illu er betra að taka of lítið tillit til vantrúaðra manna utan kirkju en trúaðra manna innan kirkju; betra að missa af vinsældum hjá hinum fyrr nefndu en að hneyksla hina síðar nefndu.

Það að eg get ekki annað en verið á móti því, hvernig séra Jón Helgason hefir komið út í þessu máli um biblíu-kritíkina, er alls ekki af því, að eg hafi þá bókstafstrú á biblíunni, sem ráðandi var hjá guðfrœðingum seytjándu aldarinnar. Mér stendr enn jafn-mikill stuggr af þeirri guðfrœðisskoðan, hvar sem hún verðr fyrir mér í nútíðinni, eins og fyrir 28 árum, þegar eg mœtti henni nýkominn frá Íslandi vestr um haf

hjá einni lúterskri kirkjudeild hér í álfu. Eg leit á þá skoðan þá sem kreddu, eða oftrúar-öfgar, einkum þegar eg sá, hve ónærgætnislega og fáránlega skoðaninni var beitt í kirkjulífinu. Og það álit mitt er í aðalatriðinu óbreytt enn. En af sömu ástœðu hlýt eg að vera á móti hinni gagnstœðu skoðan á biblíunni, þegar eg sé, að hún er orðin mönnum að þeirri öfgakreddu, sem allir eiga að vera skyldir til að beygja sig fyrir nauðugir viljugir svo sem væri þar um guðdómlegan sannleik að rœða, er sáluhjálp einstaklingsins og framtíðarvelferð kirkjunnar væri undir komin.

— Embættismenn kirkjufélagsins kosnir á þingi síðasta eru: séra Jón Bjarnason, forseti; séra Friðrik J. Bergmann, varaforseti; séra Björn B. Jónsson, skrifari; séra Jón J. Clemens, varaskrifari; Jón A. Blöndal, féhirðir; Ólafr S. Þorgeirsson, varaféhirðir.

— Samkvæmt skýrslu skrifara kirkjufélagsins, sem fram var lögð á ársþingi þess hinu síðasta, er fólkstal í söfnuðum félagsins öllum 6040. En þetta er ónákvæmt, því skýrslur vantaði frá 4 söfnuðum (Víkr-s., Guðbrands-s., og báðum Jóhannesar-söfnuðunum).

— Skólasjóðr félagsins er nú að upphæð $6387,87, en í kirkjufélagssjóði var á þeim tíma, er ársþingið var haldið, $468.35. „Sameiningin“ var í $216 23 skuld (nálega eingöngu við prentfélag Lögbergs), en átti að nafninu útistandandi $1525,45.

---

Hr. *Ólafr S. Þorgeirsson*, er féhirðir „Sam.“



„SAMEININGIN“ kemr út mánaðarlega, 12 nr. á ári. Verð í Vestrheimi: $1.00 árg.; greiðist fyrir fram. —Skrifstofa blaðsins: 704 Ross Ave., Winnipeg, Manitoba, Canada. — Útgáfunefnd: Jón Bjarnason (ritstjóri), Friðrik J. Bergmann, Ólafr S. Þorgeirsson, Rúnólfr Marteinsson og N. Steingrímr Þorláksson.

PRENTSMIDJA LÖGBERGS, — WINNIPEG.